# NÝ-VALTÝSKAN

OG

# LANDSRJETTINDIN

EPTIR

EINAR BENEDIKTSSON.

---

REYKJAVÍK.

PRENTAÐ Í FÉLAGSPRENTSMIÐJUNNI.

1902.

Í þeim stjórnarskipunarlögum landsins, sem enn þá eru gildandi (stjórnarskrá 5. jan. 1874, 61. gr.), er ákveðið, að *þjóðin* skuli með nýjum kosningum *leggja sinn dóm* á breytingar eða viðauka á stjórnarskránni er alþingi kynni að samþykkja.

Nú hefur þingið samþykkt slíka breyting, og nú á þjóðin fyrir sitt leyti að láta álit sitt uppi um breytinguna.

Það er *ósatt*, að þjóðin *hafi* þegar látið álit sitt uppi í þessu efni. Það er *sögulega ósatt*, því að frumvarp stjórnarinnar felur í sér ákvæði, sem konungsboðskapur sá, er á undan fór, minntist ekki á og benti ekki til. Og það er samkvæmt orðum og anda stjórnarskrárinnar sjálfrar *ósatt, að þjóðin geti* bundið atkvæði sitt fyrirfram til fylgis við stjórnarskipunarbreytingu, sem á að leggjast fyrir nýtt þing eptir nýjar kosningar.

Þeir menn, sem hafa ýmsra orsaka vegna greitt atkvæði með þessu stjórnarskipunarnýmæli á þinginu, hafa sumir hverir látið heyra til sín í þá átt, að þeir hefðu vissu um það fyrirfram, að þjóðin mundi ganga að þessu — að hún væri bundin sjálf við það, sem þingið nú hefði gjört. En það er ósatt og löglaust mál. ***Atkvæði þjóðarinnar er frjálst*** um þetta mál og frjáls hugsun í landinu hefur *stjórnskipulegan rjett* til þess að ræða þetta mikilvæga mál fyrir næstu kosningar, fyrir næsta þing og á næsta þingi með öllum þeim rökum og allri þeirri nákvæmu íhugun, sem þýðing þess fyrir framtíð Íslands sannarlega heimtar.

Jeg veit það ofur vel, að *ef* þingmenn skyldu nú hafa samþykkt eitthvað, sem væri í raun og veru óheppilegt fyrir þjóðina, (svo jeg beiti vægasta orðinu) — og *ef* röksemdir þær, sem heyrzt hafa frá þeim, atkvæði þeirra til rjettlætingar, væri í raun og veru ekki annað en reykur og hjegómi gagnvart rannsókn almennrar skynsemi í landinu, og *ef* þeir skyldu jafnvel flestir hverir vera mótfallnir með sjálfum sjer aðalatriði stjórnlagabreytingarinnar, *þá* væri ofur hagkvæmt fyrir þessa sömu menn að geta lagt ábyrðina yfir á herðar þjóðarinnar — ekki einungis með því að vitna í álit hennar *áður* en frumvarpið kom fram, heldur einnig með því að vitna í það, sem þeir spá, að hún muni segja *eptir* að hún hefur fengið frumvarpið til álita.

En *svo* mikið mega þessir menn ekki bjóða almennri skynsemi á Íslandi. —

Menn vilja hafa frjálst atkvæði sitt í þessu máli. — Vilji eins kjósanda bindur ekki vilja annars kjósanda. Kjósandi í fyrra gat ekki bundið kjósanda að ári, hvorki í þessu máli nje öðru — og sízt í þessu máli af öllum málum. Kjósandi í fyrra *gat* ekki einu sinni bundið sjálfan sig stjórnskipulega í þessu máli, þó hann hefði viljað — *og enginn kjósandi vildi binda sig til þess að taka* hverri *breytingu, sem væri boðin þinginu af stjórninni.*

---

Það, sem jeg nú hef sagt, miðar einungis að því að slá til hljóðs fyrir *málfrelsi* þjóðarinnar um stjórnskipunarbreytinguna. Jeg vonast til þess, að flestir muni þó játa það eptir nánari íhugun, að *þá* væri þó skörin komin upp í bekkinn, ef enginn mætti nú eptir þetta *nefna* það atriði stjórnarmálaefnisins, ríkisráðsetu Ísland ráðgjafans í sjermálum landsins, sem hefur á allra

vitund *reist* annan hinn svokallaða flokk þingsins í meiri hluta og *fellt* hinn annan hóp manna, sem er kallaður politiskur flokkur, niður í minni hluta. —

Báðir þessir svonefndu flokkar hafa nú á þessu þingi sameinast um það, að samþykkja það ákvæði, að sjermálin skyldu berast upp í ríkisráðinu, enda þótt báðir þessir svo nefndu flokkar hafi haldið áfram andstæðingsháttum sínum utan þings og innan, þrátt fyrir það. En þetta, að þing Íslendinga er skipað þeim *mönnum*, sem ímynda sjer, að þeir hafi rjett til þess að telja sig í andstæðum *flokkum*, eptir að þeir hafa sameinast um það mál sjálft, sem flokkaskipting þeirra byggðist á og hlaut að byggjast á, það gefur ekki þingmönnum neitt almættisvald gagnvart þjóðinni til þess að *þagga* niður opinberar umræður um það, sem þeim hefur þóknast að sameinast um. Ef nokkuð væri, hlyti slík politisk undrasjón — flokkaskipting um persónur og fortíð — að *veikja* þá miklu þýðingu, sem atkvæði hinnar fyrri þingsamkomu hlýtur að hafa fyrir atkvæði hins síðara þings, sem á að fjalla um stjórnlagabreytinguna. — Ósjálfrátt dettur manni í hug að efast um, að sameining atkvæðanna feli í raun rjettri í sjer sameining skoðananna hjá *slíku* þingi, og þar með hlýtur einnig að vekjast og skýrast hjá hverjum kjósanda landsins sú meðvitund, að það er *skylda hans samkvæmt stjórnarskipunarlögunum að líta sjálfstætt á verk þingsins í þessu málefni,* óháður aðgerðum sínum? eða annara kjósenda á fyrri kjörfundum.

Það sýnist einnig undarlegt, *ef* þingið er svo fullvíst um það, að það hafi nú samþykkt sanna rjettarbót fyrir landið að öllu athuguðu, og *ef* þingið þykist svo víst um það, að þjóðin hafi sama vilja sem þingið í því að samþykkja þetta frumvarp, eins og það liggur fyrir

— að þingmenn eða aðrir, sem þykjast hafa rjett til þess að ákveða um opinbera meðferð þessa máls milli þinga, skuli þá láta heyra frá sjer mótmæli gegn frjálsum umræðum um ríkisráðsetu ráðgjafans, *sem þeir vilja lögleiða.*

Því að eitt af aðalskilyrðunum fyrir því að breytingin *geti* orðið landinu og þar með ríkinu til blessunar er það, að þjóðin *skilji til fulls*, hvað sannarlega felst í breytingunni, því *tímann* verður ekki hægt að stöðva og *reynslunnar* rödd verður ekki hægt að þagga niður. Og hafi Islendingar þá fallist á hið nýja fyrirkomulag af *öðrum* ástæðum, vegna *annars* skilnings á breytingunni, heldur en framkvæmdir komandi tíma staðfesta, þá rís upp ný og öflugri óánægja með hið nýja ástand heldur en nú er í landinu gegn hinu gamla, og þá verður það ekki politisk friðaröld, sem nýbreytingin leiðir yfir landið, heldur önnur öld, skaðlegri fyrir þjóðerni Íslendinga og skaðlegri fyrir sanna hagsmuni ríkisins.

---

Jeg hef álitið, að jeg þyrfti að taka það fram, að ekki ætti að bæla niður hugsanafrelsi nje málfrelsi þjóðarinnar í þessu máli á því tímabili, sem nú fer í hönd til næstu kosninga og síðan til næstu þingloka og er það þó hart að þurfa að taka slíkt fram, sem formála fyrir hógværum röksemdum um sjerrjettindamál Íslands. — En þegar spurningunni um þýðing ríkisráðsákvæðisins hafði verið hreift hjer í bænum nú fyrir skömmu og um það leyti, sem efri deild þingsins átti að fara að gjöra út um málið, fjellu orð frá ýmsum fylgismönnum hins nýja fyrirkomulags utan þings og innan, sem sannarlega gátu skilizt á þann veg sem þessir menn *álitu ekki þjóðina hafa nú lengur rjett til þess að hugsa*

*nje tala um sjerrjettindi sín.* Þennan misskilning breytingamannanna er nauðsynlegt að leiðrjetta sem fyrst, áður en þeir telja fleiri á sömu villu. *Enn* hafa Íslendingar ekki til fulls afsalað sjerrjettindum landsins að lögum og *enn* hafa menn því rjett til þess að ræða um það opinberlega hjer á landi, hverja þýðing þessi rjettindi hafi fyrir framtíð þjóðarinnar.

Það er nógur tíminn fyrir þessa menn til þess að flagga slíkum orðum, *þegar* sú breyting er komin á, sem rjettlætir þau og setur valdið bak við þau. En til þess tíma vinna þeir ekki annað með því að kveða við *þann* tón, heldur en að vekja hjá landsmönnum grun um, að hjer sje verið að *lauma* einhverju inn, sem ekki mundi standast ransókn og yfirvegun þjóðarinnar.

Það er ekki ætlun mín hjer að nefna nein nöfn eða snúa mjer að neinu leyti persónulega að þeim, sem lengst og fremst hafa gengið í því að áfella nú þá fylgismenn landsrjettindastefnunnar, sem hafa látið heyra til sín um stjórnarfrumvarpið. Og jeg ætla mjer heldur ekki í þessu riti að svara dylgjum eða svigurmælum þeim, sem komið hafa fram gegn mjer sjerstaklega fyrir þann hlut, er jeg hef átt í því að máli þessu hefur verið hreift í Reykjavík. — Hvorki nöfn nje dylgjur *sanna neitt* um þá spurning, sem hjer liggur fyrir, og almenningur hjer á landi verður *ekki* hneigðari til þess að trúa fylgismönnum stjórnlagabreytingarinnar fyrir það, þó þeir mæti fyrstu andmælunum gegn stjórnarfrumvarpinu með persónulegum getsökum. — Þeir sem hafa *slíkar* sannanir þegar í byrjun á hraðbergi, hafa sjaldnast nein veruleg rök að bjóða um málefnið sjálft, þó þeir ætli að leggjast dýpra síðar.

Nú er komið svo, að þingmenn þeir, sem hafa verið kosnir til þess að tryggja rjettarstöðu sjermálaráðgjafans utan ríkisráðsins, og þingmenn þeir, sem voru kosnir af því að þeir fullyrtu, að þeir vildu ekki hagga þessari rjettarstöðu að lögum, sameinast um það, að *ákveða* að ráðgjafinn skuli að rjettum lögum vera ríkisráðgjafi, einnig að því er sjermálin snertir. Svo langt erum vjer komnir. En svo er ekki nóg með þetta. Annar flokkur hinna sameinuðu löggjafa sendir út erindi þess efnis, að þeir álíti **dirfsku** ef nokkur þingmaður á hinu komandi alþingi fari að hreifa við þessu nýja lagasmíði þeirra. — Með öðrum orðum: Almenningur má ekki *hugsa*, kjósendur mega ekki *velja* og þingmenn mega ekki *greiða atkvæði* í þá átt að hagga við gjörðum „þeirra sameinuðu“. Það væri „dirfska“ segja þeir. Hjer sýnist sannarlega vera byrjað ekki óglæsilega á hinni nýju „parlamentarisku“ frelsisöld, sem þeir ætla að hefja með nýju stjórnarlögunum. Og þessi nýja skýring á 61. gr. stjórnarskrárinnar, sem sje að almenningur, kjósendur og þingmenn næsta þings, eigi að *þegja* um aðalatriði þess máls, er þingrofin, kosningarnar og löggjafasamkoman 1903 miðast við, sýnist ekki síður einkennileg fyrir þá sök, að hún kemur frá mönnum, sem hafa um *allan sinn pólitiska æfiferil* afneitað þeirri skoðun á ríkisráðssetu ráðgjafans, sem þeir nú á *rúmum mánuði* hafa játast undir.

Skyldi ekki hugsandi mönnum á Íslandi þykja þetta allt nokkuð *kynlegt*, bæði sameiningin um málið og sundrungin um nöfn mannanna, annarsvegar þakklætið til stjórnarinnar fyrir sjerrjettinda afnámið og hinsvegar valdboðið til þjóðarinnar um að þegja yfir öllu saman? — Skyldi ekki friðarbogaljóminn yfir boðskapn-

um — eins og hann var uppfylltur með stjórnarfrumvarpinu, fara að þykja nokkuð *tvísýnn*, þegar nánar er að gætt.

Jeg ætla að leitast við að leiða rök að því aðallega, *hvað felst* í stjórnarfrumvarpinu í raun og veru, hverjar ástæður fylgismenn breytingarinnar hafa til að bera fyrir sig og hverjar *afleiðingar* mundu verða, ef þjóðin og hið komandi þing vildi breyta stjórnarfrumvarpinu eptir að hafa athugað hið sanna gildi þess.

Jeg hef slegið til hljóðs fyrir máli mínu hjá hugsandi og frjálsum mönnum á Íslandi og treysti því, að sannleikurinn verði heyrður, með þeirri alvöru og því rjettlæti við hógværar röksemdir, sem skoðun almennings í stjórnlagamáli voru *verður* að byggjast á, ef vel á að fara.

---

## Hvað felst í stjórnarfrumvarpinu?

Til þess að meta til fulls áhrif breytingarinnar á stjórnarfar landsins, verður að líta bæði á *löglega* merking hinna nýju ákvæða og einnig á hitt, hvernig *framkvæmdirnar* hljóta að verða vegna sambandsins við hið fyrra stjórnarfar hjer í landi og stjórnarskipun og stjórnarhætti danska ríkisins.

1. ***Frumvarpið* 'lögfestir' *sjermálin undir fullnaðaratkvæði aldanskrar stjórnarstofnunar (ríkisráðsins).***

Um þetta getur enginn efi verið.

***Áður*** deildu „and-Valtýingar" og „Valtýingar" um það, hvort það væri „lögfesting" að láta ríkisráðsspurninguna „standa opna", þ. e. að segja *ekkert* um það, hvort ráðgjafinn ætti eða hvort hann ætti ekki að lögum sæti í ríkisráðinu. And-Valtýingar sögðu: Ef Íslendingar samþykkja löglega stjórnskipunarlög fyrir landið *án þess* að taka skýrt fram, að ráðgjafinn skuli bera sjermálin upp fyrir konung ***utan ríkisráðsins,*** hafa þeir *þegjandi viðurkennt* það ástand, sem nú er — ríkisráðssetuna. — Valtýingar neituðu þessu. En eitt kom báðum flokkum þá saman um, að *ef* Valtýsfrumvarpið hefði lögfest málin í ráðinu, ***þá*** hefði það verið óhafandi.

En nú sameinast Valtýingar og hinir í „lögfestingu" með beinum ákvæðum, sem ***allir þingmenn*** játa, að sje lögfesting.

2. *Athugasemdirnar við frumvarpið segja*, hvað *„lögfestingin“ er.*

Menn hafa deilt um það hjer á landi, hvað lögfestingin þýddi í raun og veru.

Sumir hafa sagt: „Lögfestingin“ er *uppgjöf* sjerrjettinda Íslands frá elztu tímum.

Aðrir hafa sagt: „Lögfestingin“ er *hjegómamál.* Sjerrjettindi vor eru jafnóskert eptir sem áður, *þó* vjer viðurkennum að ráðgjafinn eigi að bera sjermálin upp í ríkisráðinu.

Þessi deila stóð mjög hátt *eptir* að and-Valtýingar höfðu fengið þorra manna á það álit, að *þögn* Valtýinga um ríkisráðsatriðið *lögheimilaði* afskipti ríkisráðgjafanna af sjermálunum.

Nú hefur ráðaneytið enn á ný svarað því sjálft, hvað lögfestingin merkir. Í ástæðum til konungsboðskaparins 1897 er sagt, að sjermálin *eigi* (frá dönsku sjónarmiði) að vera háð samskonar meðferð ríkisráðsins eins og önnur mál.

Í athugasemdum stjórnarinnar við frumvarp það, sem nú var samþykkt af alþingi, er hið sama látið uppi skýrt og ótvírætt.

Jeg get þess til, að sumir muni *rengja þetta,* og því vildi jeg biðja lesendur mína að leggja sjerstaka áherslu á að athuga óhlutdrægt og samviskusamlega, hvort jeg fer ekki hjer með rjett mál.

Athugasemdirnar segja fyrst, í þeim kafla, sem ræðir um afstöðu Íslandsráðgjafans í ráðinu, að það muni vera *„haganlegast í raun og veru“*, að íslensk mál sjeu borin upp í ráðinu af honum sjálfum.

Menn taki eptir mótsetningunni þar, sem ræða er um hina ríkisráðgjafana. Þar er það *„sjálfsögð meginregla“*, að málin sjeu borin upp af þeim ráðgjafa

sjálfum, sem stendur fyrir þeirri grein mála, sem þau heyra undir.

Geti menn ekki álitið þessar tvær mótsetningar nógu skýrar til þess að sýna hvers eðlis „sjerstaða“ Íslandsráðherrans á að vera, þá líti menn á næstu setning á eptir. Þar stendur (í mótsetning við það sem „haganlegast“ þótti) að návist hans yrði *nauðsynleg* ef einhver mál, sem *hann* (ráðgjafinn) vildi hafa fram, kynnu að skerða eining ríkisins eða jafnrjetti þegnanna.

*Þá* er návist hans nauðsynleg, þegar *hann* sjálfur (þar á móti ekki alþingi eitt fyrir sig) vill hafa slík mál fram. Annars er návist hans í ráðinu aðeins „haganleg“.

Vilja hugsandi menn neita því, að þessar skýringar bendi til þess, sem hjer segir:

*að* sjerstaða ráðherrans er aðeins *faktisk* sjerstaða — samkyns sjerstaða og sú, sem t. d. kennslumálaráðherrann danski hefur gagnvart hermálaráðherranum danska,

*að* sjerstaða ráðherrans í *þessu* efni (sjermálum, sem ekki ríða í bága við eining ríkisins nje jafnrjetti þegnanna, frá dönsku sjónarmiði) er ekki einu sinni byggð á öðru en því, sem *haganlegast* er. Aðrir ráðherrar geta *að lögum* borið mál þessi upp í ráðinu, ef *það* þykir „haganlegra“,

*að* það er þá aðeins *„nauðsynlegt“*, að hann mæti í ráðinu, *ef* hann skyldi vinnast af alþingi eða af eigin hvöt til þess að vera með einhverju, sem hann einn, eða alþing og hann í sameiningu, álíta landinu til hagsmuna og löglegt frá *íslensku sjónarmiði* gagnvart ríkiseining og þegnajafnrjetti,

*að* þá er ekki einungis líklegt, að hann lendi í

minni hluta, heldur er þá *skylda allra hinna ráðherranna* að skera mál hans niður og

*að* það er ekki einungis skylda þeirra gagnvart lögum þingsins, er fara í þessa átt, heldur einnig gagnvart *tilraunum* ráðherrans (tillögum) af því tagi.

Sjerstaða Íslandsráðgjafans *að lögum* í ríkisráðinu, hefði hlotið að tryggja *löglega* afskiptaleysi hinna ráðgjafanna af þeim málum. Hitt er ekki annað en *faktisk* sjerstaða, sem **skrifstofuskipting** allra ríkismála undir sjerstök ráðaneyti leiðir af sjer, er athugasemdir við frumvarpið segja, að það sje „haganlegt“ eða jafnvel að það sje samkvæmt „sjálfsagðri meginreglu“, að skrifstofuskiptingunni verði fylgt einnig að því, er snertir Íslandsmálin.

Eptirtektavert er það þó jafnframt og sannarlega góð bending fyrir hvern, sem vill lesa athugasemdirnar *niður í kjölinn* — að það er sagt beinlínis, að skrifstofuskiptingin sje „sjálfsögð meginregla“ að því, er við kemur málum hinna annara ríkisráðgjafa —, en um sjerráð Íslands ráðgjafans yfir málum sínum er hitt látið nægja: það sem er „haganlegast í raun og veru“.

Lögfestingin gat auðvitað aldrei þýtt annað en þetta: að Íslendingar slægju því föstu, að sjermál þeirra *lægju undir atkvæði ríkisráðherranna að lögum. Faktiskt* hlutast þeir ekki til um þau mál samkvæmt hinni „sjálfsögðu meginreglu“ um skrifstofuskiptingu ríkismála allra, *meðan* málin grípa ekki inn í hið *almenna* afskiptasvæði alls ráðsins.

Þetta faktiska afskiptaleysi getur hver einstakur ráðherra nokkurnveginn áreiðanlega treyst á, meðan hann hagar sjer nákvæmlega eptir þeim anda og pólitískri stefnu, sem ræður í því ráðaneyti, sem situr með honum að völdum; — þó er þess við þetta að gæta, að það er

ekki *hann*, sem á að segja um hvort, eða að hve miklu leyti hann hefur gengið út yfir takmörk síns sjerstaka skrifstofuvalds, *heldur* ráðherrarnir í sameiningu. En hverja þýðingu hefur það fyrir stöðu Íslandsráðgjafans sjerstaklega, *fram yfir* hina einstöku dönsku ráðherra, að vera háður atkvæðagreiðslu ráðaneytisins í heild sinni að lögum um þá spurningu, *hvar* hans faktiska skrifstofueinræði takmarkast af hinu löglega samráði ráðaneytisins í heild sinni? Þessu sýnast ýmsir politiskir leiðtogar vorir vera orðnir blindir fyrir, — og *þessvegna* mun stjórnin nú álíta vera þann rjetta tíma kominn til þess að bjóða oss að *„lögfesta“* sjermálin undir meðferð ríkisráðsins, sem *samþegnar* vorir hafa stofnað með grundvallarlögunum dönsku.

3. *Aths. stjórnarinnar þvertaka fyrir nokkra von um framgang eiginlegra* sjerrjettindamála *Íslands.*

Jeg hef sýnt fram á, *að* frv. „lögfesti“ sjermálin undir atkvæði ríkisráðins og *að* sú lögfesting merki algert afnám *réttarlegrar* sjerstöðu ráðherrans í sjermálum Íslands gagnvart ráðaneytinu í heild sinni.

En nú er ekki nóg með það, að aths. við stjórnarfrv. binda enda á alla *þá* þrætu, sem að óþörfu hefur geysað hjer í landinu um það, *hverskyns* sjerstöðu Íslandsráðherrann hafi að lögum í ríkisráðinu eptir lögfestinguna, — heldur eru þar jafnframt skornar niður allar vonir Íslendinga um að geta eptir lögfestinguna komið neinum *eiginlegum sjermálum* fram.

Jeg skal leyfa mjer að skýra þetta atriði nánar. — Íslendingar hafa um langan aldur haldið því fram, að land vort hefði að rjettum lögum *sjerstöðu* í ríki Dana, þá sjerstöðu, að Íslendingar sjálfir, en engar danskar stjórnarstofnanir, ættu að ráða hjer lögum og lofum.

Þessu hjelt Jón Sigurðsson fram og *fyrir það, að hann hjelt þessu fram* fjekk Ísland þau rjettindi viðurkennd af Dönum, sem felast í stjórnarskránni 1874 og stöðulögunum.

En jafnframt sem Danir viðurkenndu með þessum lögum *sjerstöðu Íslands* í ríkinu, að því, er snertir *þau mál ein, sem talin eru í stöðulögunum 1871,* þá slógu þeir því föstu frá sínu sjónarmiði, að hin *almennu* mál Íslands heyrðu undir löggjöf og stjórn ríkisins.

Hin síðari stjórnarbarátta Íslendinga — eptir 1874 — miðast einungis við hin viðurkenndu sjermál. Almennu málin (sem eru öll önnur mál en þau, sem talin eru í stöðulögunum 1871) eru látin liggja alveg á milli hluta á *þessu* tímabili stjórnarlagadeilunnar.

Það er þess vegna rangt, er ýmsir hafa haldið fram, að *þeir* sem vilja hafa sjerstöðu Íslandsráðgjafans óháða ríkisráðinu í sjermálunum, hljóti að vilja heimta Ísland í „personal-union“ við Danmörku.

„Personal-union“ er einungis talað um, þegar *bæði* sjerstök *og* almenn mál lands eða ríkis eru óháð sambandsríkinu.

En hvað felst nú í því, að Ísland hafi sjermál sín út af fyrir sig — löggjöf og stjórn í þeim út af fyrir sig —, eins og stjórnarskráin 1874 kemst að orði?

Í því felst það, að Íslendingar einir og konungur þeirra *(án* þess að dönsk stjórnarstofnun standi þar á milli) geti skipað svo fyrir og ráðið svo um hin sjerstöku málefni landsins, sem konungi og *íslensku* þingi og *íslenskri* stjórn þykir henta best.

Í því hefur hin síðari stjórnlagadeila verið *lík* hinni fyrri (Jóns Sigurðssonar), að þar hefur af hálfu Íslendinga verið heimtað afskiptaleysi danskra stjórnar-

stofnana af málunum, en í því hefur hún verið *ólík* eldri deilunni, að krafan um sjálfstjórn var takmörkuð aðeins til sjermálanna.

En lítum nú á það einu sinni frá sjónarmiði Íslendinga, hvernig *jafnrjetti þegnanna* á því rjettarsvæði, sem sjermálin ná yfir, geta sameinast við hagi lands vors.

Vjer viljum allir *sanna* hagsmuni landsins og þar með viljum vjer einnig *sanna* hagsmuni ríkisins. En það er á *móti* hag Íslands og þar með einnig á *móti* hag ríkisins, ef nú væri lögleitt formlegt og skilyrðislaust jafnrjetti allra danskra ríkisþegna á sjermálasvæði Íslands, og í því koma fram hin *eiginlegu sjerrjettindi* Íslands að mega óháð dönskum stjórnarvöldum ákveða sjerrjett *hjerlendra* manna á sjermálasvæðinu fram yfir allra annara þjóða menn.

En um þetta segja athugasemdir frumvarpsins, að þar sje *skylda* allra ríkisráðgjafanna að mótmæla, og undir þá kenning finnst leiðtogum vorum nú að Íslendingum *bráðliggi* á að játast löglega.

Og hin formlega jafnrjettis-kenning í athugas. frv. fer lengra, — því eptir henni getur alþing og hinn nýi ráðgjafi átt víst, að öll lög um borgaraleg mál hjer á landi verði skorin niður í ríkisráðinu, sem falla ekki saman við orð, anda og grundvallarsetningar samkyns laga meðal Dana. — Með öðrum orðum verður hinni fyrirhuguðu löggjöf lítið annað ætlað en að *leggja út* danska lagabálka, einungis með þeim örlitlu breytingum, sem *dönsku ráðgjafarnir* álíta leiða af sjerstökum högum Íslands. Sjálfstæð íslensk löggjöf, óháð því hvernig danskur rjettur er eða ætti að vera, verður ekki til og getur ekki orðið til eptir fullnaðarsamþykkt frumvarpsins.

Er þetta *svo* eptirsóknarverð stjórnarbót, er þetta *svo* bráðnauðsynlegt nýmæli, að þingið hefði ómögulega mátt bíða fáeina mánuði eptir *svari stjórnarinnar* til þess, hvort lögfestingin sje sett upp sem skilyrði, og *svari þjóðarinnar* til þess, hvort hún vilji taka slíku skilyrði?

Jeg fyrir mitt leyti er sannfærður um það, að Danastjórn hefði *aldrei* haldið lögfestingunni til streitu, ef hún hefði haft ástæðu til þess að ætla að Íslendingar *vildu* halda í sjerrjettindi sín. En *ef* Íslendingar *vilja* fleygja þeim frá sjer, þá er skylda stjórnarinnar að girða fyrir *allar* framtíðarhreifingar landsmanna í þá átt að fá þjóðlegt sjálfstæði.

En aptur er hitt eins víst, að það hlýtur að verða öllum framförum á Íslandi að fótakefli síðar, *ef* meginþorri Íslendinga vill í raun rjettri halda sjerrjettindamáli sínu í sama horfi sem allir forvígismenn þeirra um langan aldur hafa gjört, en þjóðin vegna misskilnings eða fyrir einhverjar fortölur leiðtoga sinna samþykkir til fullnaðar ákvæði, sem *breytir rjettarstöðu Íslands í ríkinu* á þá leið sem að framan er sagt.

Danastjórn ætlar sjer nú með þessu frv. að fá *vissu* fyrir því, hvað Íslendingar vilja í þessu efni. Það getur hver læs maður lesið út úr aths. frumvarpsins.

Danastjórn er skipuð mönnum sem *skilja* til fulls hvert nýmælið stefnir. *Þar* þurfa menn ekki að eyða öllum kröptum sínum og öllum pólitiskum áhuga í karp um það, *hvort* einn ráðgjafi ríkisins sje hinum háður, því þar veit hver einasti opinber umræðumaður pólitiskra mála, að ríkisráðið er stofnað *til þess* að binda hina einstöku ráðherra við vilja ráðaneytisins í heild sinni.

Danastjórn *veit* einnig mjög vel *hvert* sjerrjettinda-

krafa Íslendinga *hefur* miðað, og veit því ofur vel, hver *áttaskipti* hljóta að verða á framsókn Íslendinga, ef frumvarpið verður að lögum.

En einmitt af því að Danastjórn veit þetta allt mjög vel, þá gjörir hver sá, sem vill koma nýmælinu yfir Íslendinga *með villukenningum* um sannarlegt innihald frumvarpsins, Danastjórn sjálfri hinn mesta ógreiða. Því stjórnin vill láta byggja frumvarpið eins og það er á *viðurkenning Íslendinga sjálfra um það, að sjerrjettindakrafan standi þeim fyrir þrifum.*

Öðruvísi *vill* hún ekki þiggja það, að Íslendingar fleygi sjerrjettindunum frá sjer og öðruvísi *getur* enginn hygginn stjórnmálamaður Dana óskað þess, að breytingunni verði framgengt.

Því *meðan* þjóðernisrækt Íslendinga er til og *meðan* þeir vilja halda jafnfast við fortíðar*rjettindi* sín eins og við *tungu* sína og önnur þjóðar*einkenni*, þá finnst ekkert annað afl, ekkert stjórnarfyrirkomulag og engin pólitík útlendrar þjóðar jafn heillavænleg til þess að geta komið Íslandi *fram.*

Þetta byggist á einni ofureinfaldi ástæðu. Engin þjóð, sem hefur misst trúna á eigin framsókn sína til *sjálfstæðis, vill* vinna annað en það, sem hún álitur „borga sig“. — Sú þjóð fórnar ekki stundarhagsmunum sínum fyrir komandi tíma. Sú þjóð vill ekki *þola þyngri þrautir* í lífsbaráttu sinni heldur en boðlegar eru hjúinu í þjónustu húsbóndans. — Sú þjóð lítur, með öðrum orðum á það, sem er *„praktiskast“* fyrir einstaklingana sjálfa og ættingja þeirra — en hefur ekki hugsjónina um komandi hamingju fyrir aðra óskylda menn, *sama þjóðernis*, til þess að leiða sig áfram.

Þetta vita allir menntaðir menn um allan heim og þetta vita menntaðir menn meðal Dana.

Þess vegna *getur* Danastjórn ekki *viljað* taka þessa *aflvjel* sjálfstraustsins, sjerstakleikans og fastheldni við forn rjettindi burt frá Íslendingum, *ef* sú aflvjel er enn til hjá þeim, því *ekkert annað* getur jafn farsællega og jafn tryggilega reist framfarir Íslands *ríkinu til hags og ríkinu til heiðurs.*

En *ef* þetta allt er aðeins til *í orði* hjá þjóðinni og sjerrjettindakröfur hennar að undanförnu hafa einungis verið sprottnar af „æsingum“ einstakra manna, eins og sumir Íslendingar vilja nú víst halda fram, þá er sannarlega kominn tími til þess að „binda enda á þrætuna“, því þá er þó skárra, að Íslendingar verði praktiskir heimsborgarar eða jafnvel aldanskir, þjóðernislausir þegnar, heldur en að þeir eyði öllum tíma sínum í að klifa á þjóðernisrækt, sem er ekki til.

Og *þá* vill Danastjórn að þeir kasti nú teningnum — og *þá* gefst Íslendingum sannarlega færi á því nú.

Því frumvarp stjórnarinnar felur í sjer *algert afnám eiginlegra sjerrjettinda Íslands í ríkinu.*

4. *Spurningin um* gildi grundvallarlaganna *dönsku og rjettmæti stöðulaganna er útkljáð ef frv. verður að lögum.*

Þeir sömu menn, sem *nú* segja, að það muni hafa „litla þýðingu í rauninni“, muni aðeins hafa svokallaða „theoretiska þýðingu“, o. s. frv. o. s. frv. að gefa upp fyrri rjettarkröfu Íslendinga, að því er *sjermálin* snertir, munu nú að vísu gefa lítið eitt fyrir þá athugasemd, að með *frv.* eru grundvallarlög Dana lögleidd hjer og rjettmæti stöðulaganna viðurkennt.

En einhverntíma mundi sú kenning þó hafa haft

minni byr á þingi Íslendinga, heldur en hún virðist nú hafa hjá þeim „sameinuðu“.—

Hin *eldri* stjórnlagadeila Íslendinga var að *öllu leyti* byggð á því, að grundvallarlögin dönsku væru ekki bindandi fyrir Íslendinga og hin *yngri* stjórnlagadeila var að *nokkru leyti* byggð á því, að stöðulögin, sem einhliða dönsk stjórnarlög, væru ekki með rjettu bindandi fyrir Íslendinga sjálfa.

En *nú* þarf ekki að minnast á þetta lengur. Nú erum vjer komnir svo langt niður á við, vegna sundrungar og pólitiskrar vanþekkingar hjer á landi, að spurningin er farin að snúast um *rjettindin í sjermálunum: Vilja Íslendingar ekki líka fleygja þeim frá sjer?* —

Einhverntíma hefðu það þótt undur — ekki alls fyrir löngu, að heyra þjóðkjörna þingmenn svara þeirri spurningu játandi. En *svo* langt erum vjer þó komnir nú.

Ekki er furða þó þeir menn finni „köllun“ hjá sjer til þess, að leggja blómsveig á leiði Jóns Sigurðssonar, sem þykjast hafa valdið því að þetta frv. er nú lagt fyrir þingið, og ekki er furða þó hinir persónulegu andstæðingaflokkar á þinginu metist um *„heiðurinn“* af því, að hafa komið Danastjórn á trúna um að *þetta* sje vilji þjóðarinnar á Íslandi.

---

## Af hverjum ástæðum fallast leiðtogarnir á frumvarpið?

Eptir að menn hafa gjört sjer ljóst, *að* íhuga beri frumvarpið, sjálfstætt og óháð aðgjörðum þessa þings, og enn fremur, *að* frumvarp þetta felur í sjer afneitun alls þess, er Íslendingar hafa áður haldið fram um landsrjettindi sín að fornu og nýju, liggur næst fyrir að ransaka, hverjar *ástæður* þeir bera fyrir sig, sem vilja samþykkja frumvarpið eins og það liggur fyrir.

Ástæðurnar eru harla margar, blandaðar og óskýrar, svo að bæði verður illt og óskemmtilegt að fást við að rekja þær allar til rótarinnar — en hjá því nauðsynjaverki verður þó ekki komist.

Ástæðurnar skiptast aðallega í tvo meginflokka, *þær* sem byggðar eru á *hugsun* og *hinar* sem *ekki* eru byggðar á hugsun, heldur óljósum tilfinningum, sem leiðtogarnir geta ekki skýrt fyrir sjálfum sjer.

Af hinum fyrra flokki er aptur tvenns konar röksemdum beitt. — *Sumir* hinna hugsandi fylgismanna frumvarpsins byggja fylgi sitt við það á *ótrúnni á íslenskt þjóðerni*, og *aðrir* á *röngum skilningi*, ýmist á sambandinu milli sjermála og almennra mála, á stöðu ráðgjafans í ríkisráðinu, á afleiðingum þess, að hin faktiska staða hans þar sje viðurkennd lögmæt af Íslendingum, á grundvallarhugmyndum þingræðis og takmarkaðs einveldis og loks jafnvel á misskilningi á sambandinu milli sjermálanna og þjóðarjettarins.

Þeir fylgismenn frumvarpsins, sem beita ekki hugsunarrökum til þess að rjettlæta atkvæði sín, heldur fylgja „slagorðum“, sem þeir heyra af öðrum eða finna sjálfir upp, reika aptur í þessu efni milli ýmsra óljósra afsakana af ýmsu tagi. Sumir þykjast halda, að þeir *hafi* verið kosnir til þess að samþykkja hvað sem stjórnin legði fyrir. Sumir vilja þóknast þjóðinni við *komandi* kosningar með þessu. Nokkrir tala um, að þjóðin sje orðin *„þreytt“* og vilji fá hvíld, hvað sem hið nýja ástand hafi að bjóða. Aðrir tala um, að lagt mundi verða út í *„vonleysisbaráttu“*, ef frumvarpið væri ekki nú samþykkt. Einnig vakir fyrir nokkrum, að *„styggja ekki stjórnina“* með neinni tillögu til breytinga á frumvarpinu. Loks bera sumir fyrir sig, að *„annars mundi Valtýskan komast að“*.

Jeg ætla fyrst að minnast á hinar eiginlegu röksemdir og síðan á „slagorðin“.

## Ótrúin á íslenskt þjóðerni.

Sú ástæða til fylgis við frumvarpið, sem byggist á ótrúnni á íslenskt þjóðerni, er ekki samfara röngum skilningi á sannri merkingu stjórnlagabreytingarinnar.

Þeir, sem hafa *ótrúna* sjer til afsökunar *vita*, að þetta frumvarp felur í sjer algert afnám íslenskra sjerrjettinda að lögum.

Þessir menn *vita*, að hjer er verið að setja inn *danska stjórn* í stað þess brots af innlendri stjórn, sem vjer nú höfum.

Þeir *vita*, að í stað þess vísis af innlendri löggjöf, sem vjer nú höfum, stofnar frumvarpið nokkurskonar *útibú* hinnar dönsku ríkislöggjafar hjer á landi.

Þeir *vita*, að eptir að frumv. er orðið að stjórnarlögum, eiga framfarirnar og framfarahugmyndirnar að

koma *ofan að* frá skrifstofu ríkisráðgjafans íslenska, en ekki neðan að, frá fulltrúasamkomu þjóðarinnar.

En er það rjett af þessum mönnum, að hafa svo mikla ótrú á þjóðerni Íslendinga?

Hefur *þjóðin* sýnt, að hún sje óhæf til þess að hafa gagn og heiður af einkennum sínum á komandi tímum, af tungu sinni og af *landsrjettindum* sínum?

Ef þessir menn byggja ótrú sína á nokkru öðru en lausum sleggjudómum, þá hljóta þeir að leiðast til álits síns af því, hvað hafi verið *gjört* og hvað hafi verið látið *ógjört* af Íslendingum sjálfum aðundanförnu í þeirra eigin málum, þar sem þeir hafa haft sjálfræði um málefni sín.

En jeg held að þeir „ótrúuðu“ taki þjóðina hjer í misgripum fyrir *yfirstjettir* þjóðarinnar.

*Ef* t. a. m. alþing 1902 væri sannarleg politisk líking og eptirmynd þjóðarinnar sjálfrar *þá* finndist mjer ómögulegt að áfella þá „ótrúuðu“ fyrir sjerrjettindaafnámið.

Þá *ætti* þjóðin, að mínu áliti, að óska eptir aldanskri ríkisstjórn inn í landið og óska eptir dönskum skrifstofuhugmyndum inn í löggjöfina í stað þjóðlegra hugmynda frá þinginu.

En jeg held að það sje auðskilið hverjum, sem vill líta rjett á hagi og kjör þjóðar vorrar, að alþing þetta er *ekki* sönn politisk eptirmynd þjóðarinnar.

Fyrst og fremst hafa kosningarlögin verið langsamlega brotin á þjóðinni.

„Kjörstjóraþingið“ 1901 sýndi það best hver afleiðingin verður þegar þjóðin *má ekki kjósa frjálst eptir lögunum.*

Í lögum um kosningar 14. sept. 1877, 31. gr., stendur með skírum orðum *„að engin af kjörstjór-*

*unum megi tala með eða móti kosningu neins þingmannsefnis*". — Hvað getur verið skýrara forboð gegn því að kjörstjórinn sjálfur mæli með sjálfum sjer sem þingmannsefni?

Enn fremur er það föst meginregla stjórnskipana meðal siðaðra manna, að sá sem hefur *vald* til úrskurðar eða dóms má ekki sameina það við *málsaðilastöðu* sín sjálfs.

En kjörstjóri getur á *ýmsan hátt* og samkvæmt sinni *opinberu stöðu* haft áhrif á úrslit kosninganna. Þetta þarf jeg ekki að skýra frekar hvorki með útlistunum nje *dæmum*.

Sumir segja, að *venja* sú sje orðin bindandi hjer í landi, er heimili kjörstjórakosningar. En það er ekki rjett. Venja gildir aðeins undir *þögn* laga, en ekki á *móti* lögum.

Aðrir segja, að kjörstjóri geti „vikið sæti" á meðan kosningar fara fram, og því geti kjörstjórakosning verið lögleg. En það er einnig rangt. Kjörstjórastarfið nær einnig til *undirbúningsins* undir kosningarnar — og *það* veldur opt mestu.

Menn kunna að segja, að það sje *hart*, að bola ágætu þingmannsefni í kjörstjórastöðu frá kosningu til þingsins, en með slíku forboði væri það gjört. En þetta er heldur ekki rjett. Afbrigðaþingmannsefni í kjörstjórastöðu getur varla komið fram nema að *önnur* kjördæmi fái að vita um það og *þar* gæti þingmannsefnið boðið sig fram. En á hinn bóginn á ekki embættisbrjef sýslumanns eða bæjarfógeta jafnframt að þurfa að vera *heimildarbrjef* fyrir hlutaðeigandi embættismann til þess, að verða löggjafi fyrir landið.

Jeg hef fjölyrt um þetta atriði af því, að fyrir *þetta* langvarandi og margítrekaða lagabrot gegn kosn-

ingarrjetti þjóðarinnar er margt komið sem komið er á alþingi Íslendinga nú.

En aðalorsökin til þess, að þingið er þó svo ólíkt þjóð sinni í raun og veru og hlýtur að hafa verið það yfirleitt til þessa tíma, er að mínu áliti *fátækt* og *fámenni* þjóðarinnar.

Hlutverk þingsins og yfirstjettanna er *hærra* heldur en hlutverk almennings meðal þjóðarinnar. — Þó þjóðareinkenni mannsins sjeu *góð* og hæfileikar hans fullkomlega á borð við hæfileika annars almennings, hvar sem er í heimi, nægir það ekki þegar upp í yfirstjettirnar kemur. Þar þarf *einnig* annars við en náttúrlegra hæfileika — þar þarf *menntunar*.

En Íslendingar eru og hafa verið of fátækir og fámennir til þess að *sannmennta* yfirstjettir sínar til jafns við yfirstjettir annara mannaðra þjóða.

Jeg hef einungis nefnt þingið 1902 eitt sem dæmi þessu til sönnunar — og *hjer* á ekki við að nefna fleiri, en skortur hinnar hæstu menningar, skortur lista og vísinda í landinu, setur merki sín alstaðar á öll verk íslenskrar yfirstjettar, — og bendir jafnframt alstaðar til sömu orsaka: fátæktar og fámennis. En úr *því* geta tímarnir bætt; hitt væri *ólæknandi* ef þingið 1902 væri sannur spegill *þjóðareinkennanna* íslensku.

En látum nú vera, að allt það, sem jeg hef hjer sagt sje ósatt eða byggt á misskilningi — þá hefðu þó þeir „ótrúuðu", hvað sem öðru leið, átt að *láta uppi* opinberlega, á hverju þeir byggðu samþykki sitt til sjerrjettinda-afnámsins.

Því *þá* hefði þjóðin sjálf getað dæmt um gildi *þeirrar* röksemdar við næstu kosningar.

En allir þeir „ótrúuðu" töluðu eitthvað annað í því efni en þeir hugsuðu.

## Jafnrjettiskenningin.

Aðrir hugsandi fylgismenn frumvarpsins segja, að vjer getum ekki vænst *meira* afskiptaleysis hinna annara ríkisráðgjafa af sjermálunum, heldur en athugasemdir frumv. heita Íslendingum, — þar sje í vegi þröskuldur, sem ekki verði stigið yfir, *„jafnrjetti þegnanna“*.

Jeg þarf ekki að taka það fram, að þessir menn tala frá „dönsku sjónarmiði“. Þeir hallast að því fyrirfram og álíta það óhagganlegan sannleik, sem Danir hafa haldið fram gegn Íslendingum að undanförnu um þetta atriði.

En þeir fara lengra. Þeir misskilja jafnvel Dani sjálfa, *þeim* í vil.

Danir hafa að undanförnu *viðurkennt* í sjermálalöggjöf Íslendinga, að hjerlendir menn *gætu* haft rjettindi hjer í landi fram yfir ríkisborgarana.

Og þeir hafa einnig viðurkennt í löggjöfinni að Íslendingar hefðu nokkurn rjett til „sjerstakra“ lagaákvæða fyrir sig, án einskorðunar við danskan rjett.

Í þeim brotum og molum af *þjóðlegri* löggjöf alþingis, er komið hafa fram að undanförnu, sjest ofurvel, að það eru einmitt *sjerrjettindi Íslendinga fram yfir aðra ríkisborgara á sjermálasvæðinu*, sem öll hin síðari pólitíska þræta milli Dana og Íslendinga snýst um í raun og veru, þegar hismið er skilið frá kjarnanum.

Og menn verða að gjöra sjer glögga grein fyrir því, að „jafnrjetti þegnanna“ snertir ekki einungis *„rjettindi“* Íslendinga á því sama svæði, heldur einnig *„rjett“* þeirra (lög, venjur, samþykktir og stjórnarákvæði).

Alþingi Íslendinga hefur aldrei orðið samtaka í því fremur en öðru, að halda fram neinni íslenskri, þjóðlegri *stefnu* í löggjöfinni gegn Danastjórn og því getur enginn sagt hve langt stjórnin kynni ella að hafa farið í því, að viðurkenna *sjerrjett* Íslendinga í báðum þeim greinum, sem nú voru nefndar.

En svo mikið virðist þó augljóst í hinni íslensku löggjöf, að Danastjórn vill ekki, gagnvart skírum kröfum Íslendinga, halda fram því *skilyrðislausa, formlega jafnrjetti* þegnanna á sjermálasvæðinu, sem þingmenn hafa samþykkt með stjórnarfrv. á þessu þingi.

Og menn verða að leggja vel niður fyrir sjer hve feiknamikill munur er á þessu *„formlega jafnrjetti“* þegnanna og *„og sönnu jafnrjetti“* þeirra.

Það er t. a. m. ekki sannarlegt jafnrjetti Íslendinga og Dana *að* hjerlendum mönnum er heimilað að reka fiskiveiðar við Jótlandsskaga, Grænlandsstrendur og hjá Vestureyjum Dana gegn því að Danir, sem *ekki eru búsettir hjer*, megi reka fiskiveiðar hjer við land. — Og enn þá harðara er það þó, að Færeyingar, Grænlendingar eða Svertingjar frá eyjum þeim, sem áður voru nefndar (ef ekkert skyldi verða af eyja sölunni) skuli geta komið hjer og staðið í öllu jafnfætis hjerlendum mönnum að rjettindum yfir sjó og landi.

*Sannarlegt jafnrjetti* Íslendinga og Dana væri það, ef hjerlendir menn hefðu *þeim mun* meiri hlunnindi *að lögum* í Íslandi, sem Danir standa betur að vígi í *raun og veru* í samkeppninni við Íslendinga hjer í landi.

Danir eru auðug þjóð en Íslendingar bláfátækir. Það er því ekki sannarlegt jafnrjetti að láta *danskt auðmagn* leika sjer hjer eptir vild (án skilyrðis um búsetu fjáreiganda eða fjárstjórnanda hjer í landi) — og

þjóða svo Íslendingum hjer í móti „að koma með auðmagn *sitt* til Danmerkur“.

Það er sannarlegur þegnaójöfnuður að leggja *fámennt, víðáttumikið, óræktað, fiskiauðugt fossaland* eins og Ísland, í formlegt og skilyrðislaust þegnasamband við *fjölbýlt, þröngsetið, alræktað, fiskilaust* og *fossasnautt* land eins og Danmörk. —

Jeg nefni hjer aðeins það sem verður *þreifað* á. Annað verður varla metið mikils af „leiðtogunum“.

En Íslendingar með íslenskan anda og nokkra taug af íslensku þjóðerni munu einnig sjá hvað *tunga* vor og *þjóðareinkenni* mundu græða á þessari algerðu sjermála innlimun að lögum í danska ríkið.

Jeg býst varla við að nokkur maður þori að neita því, að með þessu verða Íslendingar gjörðir að „*þegnum þegnanna*“.

Lagalegt jafnrjetti „*í orði*“ getur orðið hinn mesti ójöfnuður „*á borði*“.

Það stoðar ekki, þó menn vísi hjer til þess að Íslendingar geti fengið „embætti í Danmörku“.

Það sýnir einungis það *eitt*, að Danir ættu einnig að geta fengið embætti hjer og enginn hefur neitt á móti því — því síður sem slíkt leiðir beinlínis af sambandinu í sameiginlegu málunum. En svo magurt og hjegómlegt sem þetta sönnunargagn er — tilvísun til embættisrjettar Íslendinga í Danmörku — er *það eitt* venjulega látið nægja, þegar innlimunarpostularnir ísera að færa rök að því hér í ræðum og ritum að *Ísland hafi engin sjerrjettindi að lögum.*

En ofan á allt það sem að framan er sagt um hinn *svokallaða* þegnajöfnuð og *sannkallaða* þegnaójöfnuð má bæta einu við, sem hefði víst þótt nægja í gamla daga — og nægði á dögum Jóns Sigurðssonar,

það er, að Íslendingar hafa aldrei *sjálfir* beðið um *slíkan* „þegnajöfnuð“ við Dani — þangað til nú, að „fulltrúarnir“ sýnast ætla að fá þjóðina til þess að biðja um hann.

Skyldi þeim takast það?

## Sjerstaða ráðgjafans.

Misskilningur innlimaranna á stöðu ráðgjafans í ríkisráðinu hefur valdið *mestu* um „sameiningu“ allra atkvæða á þingi um það, sem enginn þingmaður þóttist þó vilja — afnám sjerrjettindanna.

Jeg hef sýnt fram á það með rökum, sem enginn getur hrakið, að athugas. frumv. beinlínis *segja*, að sjerstaða hins fyrirhugaða ráðgjafa verði aðeins faktisk *skrifstofusjerstaða*.

Að lögum er hann háður atkvæði og samráði hinna annara ráðgjafa.

Og það veitir honum enga sjerstöðu að lögum, þó það geti auðvitað „ekki komið til mála“ (sbr. athugas. frumv. 1902), að hinir láti sig neinu skipta um málefni hans *meðan* hann hagar sjer að öllu leyti einsog ráðgjafi hins innlimaða Íslands á að gjöra frá *dönsku sjónarmiði*.

Jeg veit ekki til þess, að nokkur þegn ríkis nje þjónn manns standi svo lágt, að hann megi ekki búast við afskiptaleysi stjórnandans eða húsbóndans *meðan* ekkert er gjört á móti vilja þeirra. Og jeg veit ekki betur heldur en *það* sje einkenni þegns og þjóns, að *þá* eru þeir háðir afskiptum boðs eða banns um gjörðir sínar, *ef* þeir haga sjer á *móti* vilja herra síns eða húsbónda.

En *þá* fyrst kemur spurningin um *sjerrjett* Íslands í stöðulagamálunum fram, *þegar* spurningunni um

rjettarhlunnindi hjerlenda manna eða sjerstakleik innlendrar löggjafar er hreift. Þá og ekki fyr verður talað um „jafnrjetti þegnanna“ frá dönsku sjónarmiði; — og að sínu leyti eins og ríkiseiningin girðir fyrir sjerrjett Íslands í sameiginlegu málunum, vilja þingmenn nú að *þjóðin viðurkenni* þegnajafnrjettið þröskuld í vegi fyrir sjerrjetti Íslands í stöðulagamálunum.

Meðan spurningin um þegnajafnrjetti kemur ekki fram eru málin aðeins *„sjerstaklega mál Íslands“* eins og aths. frumv. að orði komast. Þar er forðast að nefna „sjermál Íslands“, enda hefði það ekki verið rjett, að nefna þau í athugas. við þessi stjórnarlög.

Því *ef* þingmenn fá *þjóðina* til þess að samþykkja frumv., verða „sjermál“ Íslands að lögum ekki til frá þeim degi.

Skyldi þingmönnum takast það?

## Samvinna þings og stjórnar.

Hin upphaflega „Valtýska“ var aðallega byggð á þeirri skoðun, að svo mikið ynnist við „samvinnuna milli ráðgjafans og þingsins“, að öðrum stjórnarbótarkröfum væri vel fórnandi fyrir það.

Hinn gamli and-valtýski flokkur hrakti þessa villu rækilega fyrir Valtýingum. Meginþorri Íslendinga sannfærðist um það, að slík samvinna mundi aðallega fólgin í því, að ríkisráðgjafinn íslenski *bældi niður* frumkvæði alþingis í öllum þjóðlegum málefnum, þar sem vilji Danastjórnar (ríkisráðsins) kynni að standa á móti.

Þetta sögðu and-Valtýingar áður — og fyrir það komust þeir að sem pólitiskur flokkur við kosningar hjá þjóðinni, að þeir hjetu því, að koma í veg fyrir

að keypt yrði „samvinnan“ fyrir þegjandi viðurkenning (ɔ: lögfesting) á ríkisráðssetu hins fyrirhugaða ráðgjafa.

En á „kjörstjóraþinginu“ 1901 sveigði hinn and-Valtýski flokkur inn á þá vegi, sem nú hafa leitt flokkinn fram úr hinni eldri Valtýsku, í sömu átt, að eins lengra, að því að viðurkenna allar hinar Valtýsku meginsetningar út í æsar.

Á þessu þingi hafa forvígismenn hins gamla and-Valtýska flokks *einangrað* sig með samþykkt á stjórnarfrv. — vikið burt frá sínum eigin flokki — þeim sem hjelt landsrjettindakröfunni fast, *fram yfir allt.*

Forvígismennirnir — hið **ný-valtýska**, fámenna brot úr hinum gamla andvaltýska meginhluta þjóðarinnar — hafa skrifað undir þá villu.

*Nú* halda þeir því fram að feiknamikil rjettarbót sje unnin með íslensku þjóðerni ráðgjafans — áður sögðu þeir — sem satt var — að það væri einkisvert út af fyrir sig.

*Nú* segja þeir að stórvægilegur fengur sje unninn með því, að ráðgjafinn eigi ekki að hafa önnur mál á hendi en sjermálin — en áður sögðu þeir — sem rjett var — að það væri í sjálfu sjer hjegóminn einn að bjóða slíkt í staðinn fyrir *„sjerstakan“* ráðherra.

*Nú* á dvöl ráðgjafans hjer á landi að vera svo „sigursæl“ breyting til hins betra — að þeir geti einungis fyrir það atriði eitt nefnt sig „heimastjórnarmenn“ — áður sögðu þeir — og það með rjettu — að faktisk dvöl hans hjer, lengur eða skemur, hlyti fremur að verða þjóðlegum framförum vorum til niðurdreps, svo lengi sem hann þó lyti erlendum yfirráðum.

En þegar öllu er á botninn hvolft, og menn rekja það sundur fyrir sjálfum sjer vegna hvers *skírnarseðill* ráðgjafans, *skrifstofugreining* málanna, *dvöl* hans

hjer (að *því* leyti sem hann kemur í *stað* landshöfðingjans) eigi nú að kaupast svo dýru verði, þá lendir allt í hinni gömlu, valtýsku meginkenningu um dýrmæti „samvinnunnar“.

Þessir *ný-valtýsku* fylgismenn frv. kenna allt hið sama sem hin upphaflega Valtýska gjörði, — að því viðbættu, að landsrjettindi Íslands að lögum *verði* að látast í sölurnar, sem hin eldri Valtýska *þóttist* vilja komast hjá.

Einkenni Valtýskunnar eru öll skír, ódulin og merkt út í æsar, á politík ný-valtýska flokksins; þess vegna hljóta hinir fyrri and-valtýsku forvígismenn heimastjórnarflokksins að gjöra annaðhvort, að játa að þeir hafi *áður* farið með rangt mál, misskilning og ranghermi gegn Valtýingum, eða að þeir sjeu *nú* á öfugri leið með stjórnarmál Íslands.

Því þeir fá aldrei skynsama menn á Íslandi til þess að skylja, að *mannanöfnin* ein sjeu næg til þess, að greina hafra frá sauðum í þessu efni.

Þeir fá aldrei skynsama menn til þess að álíta, að hinir sömu and-Valtýingar sem hafa lánað fyrri forvígismönnum sínum nafn heimastjórnarstefnunnar, verði nú „Valtýskir“, *þó* þeir haldi fast fyrri skoðunum sínum, *þó* þeir sjeu sjálfum sjer samkvæmir og taki aftur frá „forvígismönnunum“ það politiska stefnunafn, sem þeir bera ekki lengur með rjettu.

Íslensk blöð og rit geyma allar hinar fyrri sannanir gegn gildi „samvinnunnar“. Þessar röksemdir hitta Ný-Valtýinga jafn vel, eins og þær hittu á sinni tíð hina eldri Valtýinga.

Danskur ríkisráðgjafi, þó íslenskur sje að þjóðerni, verður enn sem fyr best hæfur til þess að reka erindi fyrir danska pólitík á Íslandi. Og ný-valtýski ríkisráð-

gjafinn hefur það fram yfir hinn fyrri, að hann getur rekið erindi dönskunnar, ekki einungis í *löggjöfinni*, heldur einnig *í allri æðri og lægri umboðsstjórn*.

Þingmenn, sem hafa sjálfstæðasta stöðu allra manna á Íslandi gegn Danastjórn, voru *áður* álitnir ófærir til þess að standast áhrif danska ríkisráðgjafans á alþingi sjálfu.

En nú eiga þingmenn, embættismenn, opinberir starfsmenn og allir, sem stjórnandi getur haft áhrif á til þess að *líta* politiska stefnu Íslendinga, að vera orðnir færir um að standast erindrekann danska með skírnarvottorðið íslenska.

Misskilningur hinna eldri Valtýinga á hlutverki *þingsins* á eina hlið og hlutverki ráðgjafans á hina, misskilnigur þeirra á grundvallarsetningum þingræðis og takmarkaðs einveldis, hefur gripið þeirra eigin fyrv. mótstöðumenn meðal forvígismanna hins svokallaða heimastjórnarflokks, og gjört þá valtýskari en Valtýinga sjálfa. Valtýingar misskildu frá byrjun, hvað þjóðfulltrúunum er ætlað í stjórnarskipunum hins nýja tíma, sem byggist á þeirri meginskoðun, að leita beri hjá *þjóðinni* að politiskum foringjum — með kosningum, en að ekki eigi að sækja allar framfarahugmyndir til stjórnandans, til skrifstofunnar, sem skipuð er með embættisveitingum.

Og sje það hættulegt, að bæla þingin niður undir ofurvald stjórnandans, þar sem stjórnandinn er þó innlendum lögum alháður, verður hættan margföld, þar sem stjórnandinn er erindreki útlendra hagsmuna.

Samvinna þings við ráðaneyti, með persónulegri návist ráðgjafans, á aðallega að miðast við politiska *ábyrgð* ráðgjafans á gjörðum sínum. Ráðgjafinn stendur þar frammi fyrir löggjöfunum aðallega sem *valds-*

*maður*, er verja skal framkvæmdir sínar á lögunum. En hitt mun þó fremur hafa vakað fyrir þeim, er kaupa vildu „samvinnuna“ fyrir allt annað, að hann ætti að auðga þingið að góðum og hollum löggjafarhugmyndum.

Þessir sömu menn hafa minna látið heyra til sín um *lenging þingtímans* og stofnun *milliþinganefnda* — en þetta hvorttveggja hefði þó legið nær að heimta, til þess að greiða fyrir löggjafarstarfinu, heldur en að fara að „panta“ þjóðlegar rjettarbætur fyrir Íslendinga úr „rauðu byggingunni“.

## Viðurkenningin.

Nú hafa báðir svonefndir flokkar á þinginu fallist í faðma um það gamla deiluefni, hvort *sama* væri eða ekki, að eiga sjermálin faktiskt undir meðferð ríkisráðsins eða eiga þau undir ráðinu að *lögum*.

Andvaltýingar hjeldu því áður fram, með rjettu, að *þjóðleg* stefna í löggjöf Íslendinga hlyti að hafa betri byr jafnvel *nú* gagnvart því ríkisráði Dana, er vissi af gamalli rjettarkröfu Íslands að baki lagafrumvarpanna, um algert sjálfræði landsmanna — í sjermálum þeirra að minnsta kosti.

Og áður hjeldu and-Valtýingar því fram, með rjettu, að óvíst væri að vita hve langt yrði að bíða þess, að Íslendingar fengju þessari kröfu sinni um sjálfræði í sjermálunum framgengt.

Nú á þetta allt að vera orðinn hjegómi, allur rjettur einskis verður, allar hreifingar komandi tíma fánýtar til þess að fá þjóðarrjetti *Íslendinga* fullnægt; með öðrum orðum: *nú* eiga allar mótbárur hinna eldri Valtýinga, sem lengst fóru í því að andmæla gildi *rjettar-*

*varðveislu* vorrar að vera orðnar að óhagganlegum sannleik.

Aðeins heyrast einstök lágmælt hálfyrði Ný-Valtýinga um það, að þeir sjeu ekki „ánægðir“, að þeim þyki þetta „leiðinlegt“ að þetta muni ef til vill hafa dálitla „theoretiska“ þýðingu o. s. frv. o. s. frv. En þessi hálfyrði eru enn þá ómögulegri heldur en allt annað sem heyrst hefur í þessu efni fyr. Því *annaðhvort* merkir lögfestingin allt *eða* ekkert um landsrjettindi Íslands á sjermálasvæðinu.

Ef viðurkenningin merkir algert afnám landsrjettinda vorra að lögum, þá finnst mjer að löggjafarnir hefðu átt að gera grein fyrir atkvæði sínu á annan hátt, virðing fyrir *margra alda* kröfum Íslendinga um sjálfstæði í ríkinu hefði átt að leggja þeim önnur orð í munn.

*Ef* þar á móti viðurkenningin gildir *ekkert* fyrir framtíð Íslendinga, þá átti illa við að láta heyrast þetta „urg í botninum“.

Til þess að vera sjálfum sjer samkvæmir hefðu fulltrúarnir átt að *lýsa gleði sinni yfir* lögfesting sjermálanna í ríkisráðinu, en þetta gjörði enginn þeirra. *En hvers vegna* gjörðu þeir það ekki? —

Nefndarálit efri deildar segist byggja á því, að ráðgjafinn verði látinn afskiptalaus í sjermálum landsins. Enn þessi fyrirvari er fánýtur og einskis verður.

Ef maður ræður annan hjá sjer í venjulega hjúavist og lýsir því skýrt yfir, að maðurinn skuli vera hjú, þá dugar ekki þó vinnuþiggjandi segist ráða sig að því áskildu, að hann sje daglaunamaður.

Aths. frv. segja skýrt og ótvírætt að engin sjermál önnur enn þau, sem Dönum má vera sama um, hafi nokkra von um samþykki ríkisráðsins. Hvernig

getur þá efri deild búist við að fyrirvari hennar verði að nokkru metinn?

## Er innlimunin nauðsynleg?

Því hefur verið haldið fram, aðeins af fáeinum mönnum að undanförnu, að *sjermálaráðherrann* þyrfti að sitja í ríkisráðinu, en nú virðast fleiri og fleiri jafnvel meðal hinna fyrri And-Valtýinga vera að halla sjer niður í þennan sama misskilning. Þær raddir, sem heyrst hafa opinberlega í þessa átt, byggja kenninguna á því, að annars geti ráðgjafinn ef til vill haldið fram málum, er snerta við hagsmunum Dana á rjettarsvæði hinna svo kölluðu *sameiginlegu* mála.

Þessi kenning er kominn fram af tvennum meginvillum.

Fyrst og fremst *getur* sjerlöggjöf Íslendinga, frá dönsku sjónarmiði, ekki ákveðið um neitt, breytt neinu nje fellt neitt úr gildi, um hin svo nefndu almenn málefni. *Ef* innihald sjerlöggjafarinnar kynni að einhverju leyti að fara inn á það svæði, hlyti það af sjálfu sjer að falla burtu með *lagaþýðingu*, alveg eins og ákvæði dönsku ríkislöggjafarinnar um sjermál vor hlytu að falla burtu fyrir rjetttri lagaþýðingu, alveg eins og Íslendingar sýndu fram á það á sínum tíma, að grundvallarlögin dönsku gilda ekki fyrir Ísland.

Og í öðru lagi er þess að gæta, að það eru Danir en ekki vjer, sem eiga að annast sín vegna umsjónina yfir því að sjermálalöggjöf og sjermálastjórn Íslendinga snerti ekki rjettarsvæði þeirra.

Þetta byggist á þeirri alviðurkenndu meginsetningu þjóðarjettarins, að rjettarreksturinn er meðal þjóðanna í höndum þess, sem fyrir rjettarbrotinu verður.

Meðhaldsmenn kenningarinnar eru því allt of um-

hyggjusamir fyrir hönd Dana þegar *þeir* eru að bjóðast til þess að gæta þess að *Danir* gæti þeirra.

Einstöku raddir hafa heyrst fara svo langt í þessu, að segja nauðsynlega lögfesting ráðherrans í ríkisráðinu fyrir þá sök, að ella kynnu Íslendingar að geta stofnað Dönum í hættu gagnvart öðrum þjóðum. Þessir menn stökkva yfir hin „sameiginlegu mál“ upp í *alþjóðamálin* og vilja bjóðast til að „passa“ að Danir „passi“ að aðrar þjóðir „passi“ sig. Þetta er nú heldur langt farið fyrir hönd svo lítils málsaðila á alþjóðarmálefnum sem Íslendingar eru. Nær væri Dönum að senda utanríkisráðherra sinn með dönsk löggjafar- og stjórnarmálefni undir atkvæði ríkisráðsins þýska, til þess að ráðherrar Þjóðverja gætu skorið niður í tíma tilraunir Dana til þess að brjóta þjóðarrjett gagnvart þýska ríkinu. En ekki hefur það heyrst enn, að neinn stjórnvitringur Dana hafi komið með tillögu í þá átt, nje heldur að sú kenning hafi neinsstaðar náð fótfestu meðal stjórnmálamanna hjá siðuðum þjóðum — annarsstaðar en hjá nokkrum leiðtogum *vorum* í „stjórnmálabaráttunni“.

Einstakir menn hjerlendir hafa farið enn lengra. Þeir hafa sagt það bæði *„sóma og gagn“* fyrir Íslendinga, að mega leggja sjermálefni sín undir meðferð ríkisráðsins, og hafa látið drjúgt yfir því, að þá gæti ráðherrann íslenski gætt þess, að *Danir* brytu ekki alþjóðarjett, ríkiseining nje sjermálarjett vorn, gegn íslensku þegnunum. — Þessir menn virðast hafa mikla trú á því, að danska ríkinu vinnist nýir stjórnmálaspekingar með því að hefja „leiðandi“ menn í „meiri hlutanum“ á alþingi (t. a. m. árið 1902) til ráðgjafastöðu, og jeg skal gjöra ráð fyrir því, að sú trú sje á rökum bygð.

Jeg skal gjöra ráð fyrir því, að alþing Íslendinga sje einasta þing í heimi, þar sem politiskir afbragðsmenn þurfa ekki að sýna ágæti sitt í öðru en *persónulegum getsökum* hvorir til annara.

Jeg skal gjöra ráð fyrir því, að alþing Íslendinga sje einasta þing heimsins, þar sem politiskir leiðtogar þurfa ekki að *alast upp í baráttu milli andvígra flokka,* er hafi ákveðnar *stefnur,* ákveðnar politiskar *skoðanir.*

En þó svo væri, finnst mjer hart að kaupa ráðgjafann í „fæddan“ minni hluta um öll sjermál vor, þar sem hann kynni að fylgja málum vorum fram gegn ríkisráðgjöfunum, fyrir það að hann fái að vera sama minni hluta brot af ráðaneytinu, *þegar* hann kynni að standa á móti einhverju, er Danir vildu hafa fram.

Því þess er að gæta, að *þá* verður allt, sem Danir kunna að gjöra, hvort heldur er grundvallarlagabreyting eða annað — **löglega bindandi** fyrir Íslendinga, ef ráðgjafi vor „fær“ að sitja í ráðinu sem minni hluti — en ekki bindandi fyrir oss ella, að rjettum lögum, ef sjermálaráðherrann tekur ekki þátt í meðferð aldanskra mála.

## „Slagorðin“

Jeg hef leitast við að sýna fram á, hvað ábyggilegar eru helstu röksemdir hinna „sameinuðu“ fyrir því, að frumvarp þetta sje *sönn stjórnarbót.*

En því næst kemur þá til „slagorðanna“ — þess, sem menn slá fram frumvarps-samþykktinni til rjettlætingar, án þess þeir gjöri sjer grein fyrir því sjálfir, hvað í slagorðunum felst.

## *I. Kjósendaumboðið.*

Sumir af fulltrúunum bera fyrir sig, að þjóðin hafi falið þeim að taka þessu frumvarpi.

Þetta er ekki rjett. Á Reykjavíkurfundinum 11. þ. m. fjellust allir á það, að boðskapur konungs hefði ekki bent á eða gjört ráð fyrir *„beinni lögfesting“* sjermálanna í ríkisráðinu.

Á hinn bóginn var þingmönnum ekki leyft að ganga að *öllu,* sem stjórnin kynni að bjóða.

Ef þingmenn hefðu spurt kjósendur, þá er þeir fengu *„umboðið“:* Megum við afhenda öll landsrjettindi Íslands frá elstu tímum, ef stjórnin fer fram á það — hverju mundu þá kjósendur hafa svarað?

Enginn *íslenskur* kjósandi mundi hafa svarað *já* við því.

## *II. Vilji þjóðarinnar eptir þingið 1902.*

Enn verri villa er það, er sumir þingmenn vilja byggja atkvæði sitt á *spánni* um vilja kjósenda við næstu kosningar.

Fyrst og fremst er því illa og óviturlega spáð, að þjóðin muni nú, allt í einu, vera orðin svo breytt, að hún vilji fleygja frá sjer landsrjettindum Íslands, sem *þjóðin hefur haldið fast við* gegnum alla sína fátækt og lífsbaráttu að undanförnu.

Í öðru lagi hefur enginn þingmaður rjett til þess, að byggja atkvæði sitt í aðalmáli landsins á því, hvað kjósendur *muni* vilja fallast á. Þingmenn, sem leyfa sjer að „spekulera“ í næstu kosningum á þann hátt, eru orðnir *óhæfir* til þess að vera fulltrúar þjóðarinnar.

Í þriðja lagi *eiga* þingmenn í málefni, sem snýst um landsrjettindin, að fylgja *einungis sinni eigin*

*sannfæringu* — og hafa ekki einu sinni leyfi til þess, að flytja erindi annara skoðana um slíkt mál, *þó* nokkrir kjósendur kynnu að vilja glæpast til þess á einhverjum opinberum fundi að láta uppi, að þeir samþykktu afnám landsrjettinda sinna.

Það sanna er, að þessir þingmenn vilja telja þjóðinni trú um það, *eptir* að þeir hafa sjálfir neglt sig á frumvarpinu, að kjósendur *hljóti* nú að taka þessu glæsilega tilboði stjórnarinnar.

Skyldi enginn kjósandi kunna að þakka þeim eptir verðleikum fyrir það, að *„smíða“ þannig politiskar sannfæringar* fyrir aðra menn *á móti* rjettindum þeirra eigin lands?

## III. *„Þreytan“.*

Þjóðin er orðin *þreytt* á því að heyra *þvætting* hinna svo kölluðu leiðtoga sinna um stjórnarmálefnið.

Þjóðin er orðin *þreytt* á því að lesa illa samdar skammagreinar í blöðunum, sem koma opt í stað röksemda og útlistana um þetta mál.

Þjóðin er orðin *þreytt* á því, að þingið gjörir lítið annað fyrir atvinnumál landsmanna heldur en glappaskot, hálfkák eða hrein og bein politisk axarsköpt.

Þjóðin er orðin *þreytt* á sínum eigin valdsjúku og hringlandi leiðtogum. En hún er ekki orðin þreytt á *sínu eigin hlutverki*. Það getur enginn sagt sem lítur rjettilega á lífsbaráttu hennar og framsókn, þrátt fyrir *allt* stefnuleysi og *persónupólitík* ýmsra hinna svo nefndu leiðtoga, sem *tefur* fyrir því að alþingi fullkomnist — nemi þá list að vera *sannarlegt, þjóðlegt og hyggið löggjafarþing Ísiendinga.*

Já, þeir segja það satt að þeir hafa *„þreytt“* þjóðina — en þeir hafa þreytt hana — ekki á sjálfri sjer,

ekki á því að halda þjóðerni sínu, ekki á því að leita áfram til fullkomnunar fyrir vort eigið þjóðfjelag — heldur hafa þeir þreytt þjóðina á því, *að þurfa að berjast við sína eigin leiðtoga í velferðarmálum landsmanna.*

Allir skynsamir menn á Íslandi vita að *umboðsstjórnin* stendur oss ekki fyrir þrifum og að *apturhald Dana* stendur oss ekki í vegi nú. En þar á móti er sú sannfæring að læðast inn í hugskot manna, og festa dýpri og dýpri rætur þar, að þingið, eins og það hefur verið skipað með *kjörstjóra kosningum og ofríkis agitation einstakra manna,* sje hinn eini sanni þröskuldur í vegi fyrir þjóðlegum framförum á Íslandi.

En nú komast heimullegar *frjálsar* kosningar á hjer í landi.

Skyldi þjóðin *þá* ekki sýna fulltrúunum *hvað* það er sem hún er orðin þreytt á?

## *IV. Kemst Valtýskan að?*

Þeir ný-valtýsku fylgismenn frumv., sem voru kosnir til þess að forða landinu frá Valtýskunni gömlu — þykjast hafa mikinn beig af því, að hið eldra frv. Valtýs muni komast að, ef þessu verði breytt á þann hátt, er stjórninni kynni að mislíka.

Jeg hef sýnt fram á það með *rökum* hjer á undan, að Ný-Valtýskan er byggð á sömu meginsetning sem hin eldri — en einungis lengra leidd út í allar æsar á móti fyrri kenningum And-Valtýinga.

Það sýnist því nokkuð furðanlegt í fljótu bragði, að gamlir And-Valtýingar skuli bera það á borð, að þeir óttist *fremur* hina eldri Valtýsku.

Frá *þeirra* sjónarmiði hefði án efa átt fremur að kjósa hið eldra frumv. en hið nýrra, því Ný-Val-

týskan þvergirðir með beinum orðum fyrir allar vonir um viðreisn þjóðlegrar stefnu í landsmálum gegn hagsmunum samþegnanna, sem hin eldri Valtýska ljezt þó vilja þegja um. Valtýskan eldri *opnaði* Danapolitikinni hurðirnar á gátt, en Ný-Valtýskan *harðlæsir* öllum hurðum fyrir sjerstökum hagsmunamálum Íslendinga á sjermálasvæðinu.

En auk þess sem andvaltýskir fylgismenn frumv. eru sjálfum sjer ósamkvæmir í þessu efni, mega þeir einnig vita, að *ef* hinu Ný-Valtýska frumv. verður breytt eða því hrundið, þá gjörir þjóðin það aðeins af því, að hún vill enga Valtýsku sjá nje heyra framar — engin skipti eða hrossakaup hafa um landsrjettindi sín og engri breytingu taka á stjórnarlögum sínum, *nema sannri stjórnarbót í þjóðlegri átt.*

Ný-Valtýskan stendur og fellur með því, hvort meginþorri Íslendinga *hefur* gjört rangt eða rjett í því, að fælast frá hinni eldri Valtýsku, því nýjasta stjórnarskrárbreytingin með „útibúsetuna“ er sönn *dóttir hinnar eldri Valtýsku,* stórfeldari og rammdanskari á svíp en móðirin — og ekki einu sinni klædd því dulargerfi hálfgerðrar íslensku, sem eldri Valtýskan reyndi að fela sig í.

## V. *Vonleysisbaráttan.*

Sumir fylgismenn frv. segja að lagt muni verða út í „vonleysisbaráttu“ ef því væri breytt. Þetta er einnig „slagorð“ sem enga skynsamlega rannsókn stenst.

Þingmenn hafa enga *sönnun* fyrir því, að Danastjórn muni gjöra ríkisráðsákvæðið að kappsmáli *ef* Íslendingar hjeldu því einhuga fram að það væri numið burt. Þvert á móti *sýnir* hið eldra Valtýsfrv., sem stjórnin jafnframt hjet að samþykkja, *án* ríkisráðs-

ákvæðisins, að stjórnin *hefði ekki getað rjettlætt það að gjöra ákvæðið að skilyrði* fyrir staðfesting frv.

Menn hafa sagt að ríkiráðsákvæðið *þurfi* frá Danasjónarmiði að vera í nývaltýska frv. en ekki í hinu eldra vegna „búsetunnar“. Það er rangt — því ákvæðið er sett á eptir orðunum „fyrir konung“ — sem hlutu að sýna jafnvel sem í eldra Valtýska frv. *að* ætlast var til þess að ráðherrastöðunni í löggjöf og æstu stjórn væri beitt í *Kaupmannahöfn* en ekki í Reykjavík. En *þó* stjórnin hefði neitað, þá sannar það ekki að Íslendingar þurfi að leggja út í neina vonleysisbaráttu fyrir þá sök í sjálfu sjer (sbr. það sem síðar segir um afleiðingarnar af því ef frv. yrði breytt). Í sjálfu sjer gæti maður t. d. hugsað sjer, að með því fengi þjóðin hvíld frá baráttunni á móti persónupólitik þeirra „valdasjúku“. — Maður gæti t. d. hugsað sjer, að upp af rústum hinna persónulegu andstæðingsflokka rísi nýir menn, nær einkennum þjóðarinnar sjálfrar, með ákveðnari skoðanir, *menn sem skildu til fulls hver aðalorsökin er til hinnar politisku óánægju á Íslandi.*

En þar á móti er eitt víst og áreiðanlegt, að *ef* frv. verður að stjórnarlögum, *þá* er íslensku þjóðerni, íslenskri tungu og íslenskum þjóðarhagsmunum stofnað í sannarlega *vonleysisbaráttu* gegn samkeppni ríkisborgaranna, sem hafa auð, menningu, mannfjölda og yfirráð tilbúin til þess, að hagnýta sjerrjettindi Íslendinga sem áður voru — *betur* en landsmenn sjálfir eru *enn þá* færir um.

Og þó enginn gaumur væri gefinn að því sem nú var sagt, munu þó fæstir menn fást til þess að trúa á þann fláa og hola fagnaðarboðskap Ný-Valtýinga, að þeir sjeu með frv, að stofna einhvern „Paradísar-frið“, eitthvert „politiskt sæluástand“ hjer í landinu.

Því lífið er stríð og á að vera stríð — einkum hlýtur hið pólitiska líf að vera sífelld barátta. Friður í þeim efnum er sama sem dauði

En eiga Íslendingar að neyða sig inn í baráttu á *móti* sinni eigin þjóð, aðeins til þess að fá stundarfrið í *baráttunni við sína eigin leiðtoga?*

## *VI. Styggjum ekki stjórnina!*

Sumir þingmenn, sem *játuðu* opinberlega og „privat“ utan þings, að þeir *vildu* taka ríkisráðsákvæðið burt úr frv. samkvæmt tillögu Reykjavíkurfundarins — en sæju sjer ekki *fært* að koma því fram, gátu þess jafn framt, að þeir óttuðust ónáð stjórnarinnar — ef þær tækju að brydda á slíku.

Svo langt eru þessir leiðtogar komnir, *áður* en þeir sjá ráðherrann ný-valtýska.

Þeir eru að bregða upp fyrir sjálfum sjer og öðrum mynd af sjálfstæði þingsins þegar ríkisráðgjafinn kemur yfir þá — með lögfesting sjermálanna undir atkvæði dönsku ráðherranna að baki sjer.

Þessir menn *halda* að *Danir* muni virða þá fyrir duptsauðmýktina, fyrir örlæti þeirra á einustu eign sinnar eigin fátæku þjóðar, örlæti þeirra á þjóðerni og landsrjettindum Íslendinga. Þeir halda að vitrir menn meðal Dana muni kunna þeim þökk fyrir *þögnina* um sjerrjettindin, eða *þakklætið* fyrir afnám þeirra. En þessum háttvirtu leiðtogum skjátlast í þeirri grein sem fleiru.

Þeir mega ekki hyggja að *Danir* skilji ekki nje skynji hvað *þeir* mundu hafa gjört ef þeir hefðu verið í sporum leiðtoganna. Þessi skilyrðislausa uppgjöf alls þess, sem Íslendingar *hafa* haldið fram um landsrjettindin að undanförnu hlýtur fremur að vekja

óhug hjá bestu mönnum Dana. Því þeir vita einnig vel með hverskyns þegnum á Íslandi hag *ríkisins* á komandi tímum er best borgið. — Sannir vinir danska ríkisins vilja einnig helst að *Íslendingar sjálfir sjeu sannir vinir síns eigin lands*.

---

## Hverjar verða afleiðingarnar, ef frumv. verður breytt?

Nú höfum vjer litið á það, *hvað* felst í stjórnar-frumv. og *hvað* leiðtogarnir bera fyrir sig.

Nú er að líta á það, *hvað* leitt *getur* af breytingum á frumv. á næsta þingi.

*Setjum að stjórnin aðhyllist breytingarnar*. Leiðtogarnir sjálfir játa, að *þá* líkaði þeim þó betur, ef ríkisráðsákvæðið væri numið úr frumv., því flestir segja þeir þó, að þeim þyki ákvæðið „leiðinlegt" o. s. frv.

Jeg hef sýnt fram á það hjer að fram, að Danastjórn *ætti* ekki að vera neitt kappsmál að koma ákvæðinu að, *ef* hún getur álitið, að Íslendingar standi samhuga á móti því í raun og veru.

Allar líkur væru til þess, að stjórnin tæki til greina kröfur næsta þings um það, að fella ákvæðið burtu — og þá gæti stjórnarbreytingin komist á eptir eitt aukaþing.

Og enginn hefur farið *svo* langt, að segja, að ekki væri bíðandi eitt ár eptir breytingunni fyrir það, að komast hjá „lögfestingunni".

*Setjum að stjórnin staðfesti ekki hið breytta frumvarp.* — *Þá* — segja sumir — kemst „Valtýskan að, eða *þá* sigra „Valtýingar“ o. s. frv.

En þetta er rangt getið til. „Valtýskan“ fellur með frumvarpi þingsins 1902; hún *var* fallin hjá almenningi, fyrir þá sömu ókosti, sem nú finnast að vísu í meira mæli og á hærra stigi í hinu síðara frumv. — Og verði hið nývaltýska frumv. dæmt óhæft af þjóðinni eins og það er, þá dæmir þjóðin einnig um *valtýsku stefnuna* á þann veg, að saga hennar er úti.

Það sanna er, að forlög Ný-Valtýskunnar á næsta þingi velta á því, hvort menn sjá, hvað stjórnarskrárbreyting sú, sem nú er samþykkt af þinginu, felur í sjer, hvort menn sjá, að hún er *stórvægileg, voðaleg apturför* — frá því stjórnarástandi sem nú er. — Þetta geta menn ekki sannfærst um nema af þeim rökum, sem einnig fella Valtýskuna jafnframt. Því *enda* þótt hin eldri Valtýska sje ekki svo *fullkomin* eyðilegging þess stjórnar- og löggjafarfrelsis, sem stjórnarskráin 1874 hefur veitt oss, þá fer hún þó í sömu átt, og menn vilja ekki þiggja breytingar á grundvallarlögum landsins *aðeins* af því að einhver önnur breyting sje *enn* skaðlegri.

Því almenningur á Íslandi vill alls ekki *neina* apturför frá því sem nú er. — Þjóðinni hefur verið talið trú um að nauðsynlegt sje að breyta til; — en engin rödd hefur enn heyrst í þá áttt, að *breyta beri til hins verra* — að eins til þess að breyta.

*Fái þjóðin ekki breyting til bóta, vill hún heldur halda því sem hún hefur, en tapa því.*

Og jeg treysti því, að skynsamir menn í landinu *hljóti* að sjá, að *allt* það sem nýtilegt kann að finnast í Ný-Valtýskunni er ekki einungis fáanlegt *án* breyting-

ar á stjórnarskránni 1874, heldur ***hlýtur af sjálfu sjer*** að „fást“ án þess að stjórnarlögum landsins sje breytt.

And-Valtýingar sögðu áður — með rjettu — *að* konungur gæti tekið sjer íslenskan mann fyrir ráðherra án valtýska nýmælisins.

Þeir sögðu áður með rjettu — *að* sá ráðherra gæti mætt á þinginu án stjórnarskrárbreytingar, sem umbjóðandi umboðsmannsins og samkvæmt *þingvenju.*

Þeir sögðu áður — með rjettu — að hann þyrfti ekki að hafa önnur mál á hendi nú, hvorki eftir dönsku grundvallarlögunum nje ísl. stjórnarskránni.

Og þeir hljóta að játa *að* ráðherrann getur verið ***búsettur*** í Íslandi eins og nú er. Engin lög banna það.

En *ef* svo er — því á þá að breyta stjórnarskipun landsins til þess að fá þetta?

Enginn hefur farið svo langt, að segja að við þurfum að breyta lögunum *til þess eins, að afsala rjettindi landsins.* —

Helsta blað And-Valtýinga — „Þjóðólfur“ — hefur áður sýnt fram á það með glöggum rökum að *stjórnarfarsbreytingar,* án orðabreytinga á stjórnarskránni, væru nægilegar til þess að allt fengist sem eldri valtýska stefnan hafði að bjóða til bóta — og þó Valtýingar upphaflega hjeldu því gagnstæða fram, sannfærðist meginþorri þjóðarinnar um það sem satt var í því máli.

En nú er „búsetan“ í Ný-Valtýska frv. það eina, sem þar finnst fram yfir „stjórnarbót“ eldri valtýskunnar — og það vita *allir* að búsetan getur ákveðist með *einfaldri stjórnarráðstöfun* innan ríkisins.

Það sanna er, að stjórnin *gæti* ekki neitað þeim *stjórnarfarsbreytingum,* sem hinir „sameinuðu“ nývaltýsku fylgismenn frv. vilja fyrir hvern mun gjöra að *stjórnlagabreytingum.*

Stjórnin *gæti* ekki rjettlætt það fyrir neinum, að setja „lögfestinguna“ upp sem skilyrði fyrir því að gjöra „auðveldari samvinnuna milli þings og stjórnar“.

Og hún mundi aldrei neita því. En Íslendingar hafa *sjálfir* verið að gjöra henni upp orðin í þessu efni og hafa aldrei einhuga *heimtað* stjórnarfarinu breytt á *þann* hátt.

Að því er snertir þingmannastöðu þeirra manna, er hafa samþykkt nývaltýska frv. vil jeg geta þess, að afleiðingin af *samtökum landsmanna um að breyta* frv. mun verða sú, að þeir yrðu *opinberlega* að lýsa því yfir sem þeir létu í ljósi *„privat“*, margir hverjir, eptir að Reykjavíkurfundurinn hafði verið haldinn — sem sje, að þeir greiddu atkvæði með frumv. *til þess að þjóðin hefði frjálsar höndur,* hvort hún vildi taka frv. eins og það er, eða breyta því, og vonandi er að þeir verði svo samviskusamir að nota ekki *hjeraðsríki* sitt til þess að halda *að* þjóðinni, breytingu sem þeir með sjálfum sjer álíta „óheppilega“ fyrir landið eins og hún liggur fyrir.

Það er *vonandi* að einstakir þingmenn fari ekki að endurtaka ummælin um „dirfskuna“, er heyrst hafa frá nokkrum leiðtogum flokkanna.

Þeir *sömu* menn, sem töldu á sínum tíma 61. grein stjórnarskráarinnar gimstein stjórnarlaga vorra, ættu ekki að vera svo *djarfir* að reyna að ógna þjóðinni eða að hræða hana frá því að *nota nú* gimsteininn.

*Svo* langt mega mennirnir ekki fara í ósamkvæmni við sjálfa sig — *það* væri að ofbjóða þeirra *eigin* skynsemi.

En ummælin um *„dirfsku“* sem heyrst hafa, hljóta að vekja „illt blóð“ meðal almennings. Þau orð eru

svo *óþingleg*, svo *ómannleg*, svo *fávísleg*, að þau hljóta að hefna sín á þeim mönnum, sem bera þau fram.

Hvenær hefur það í nokkru landi verið kölluð „dirfska“ að mæla á móti skaðlegri, óþjóðlegri breytingu í stjórnarlögum lands — dirfska að standa á grundvelli rjettarins, á móti óheillanýmæli einhverra valdasjúkra breytingamanna?

*Ef* slík ummæli miða til nokkurs, þá miða þau annaðhvort til þess, að *hræða* menn eða *æsa* menn.

Hvorttveggja er óþingleg iðja — og hvorugt mun breytingamönnum takast, hversu litla trú, sem þeir kunna að hafa á þjóðrækni Íslendinga og heilbrigðri skynsemi í landinu.

---

Til hliðsjónar er hjer prentað upp úr stjórnarfrv: og athс. við það, svo mikið sem þarf, til þess að menn geti glöggvað sig á ríkisráðsákvæðinu og merking þess.

*Úr stjórnarfrumvarpinu.*

*1. gr. (2. gr. stjórnarskrárinnar).*

Konungur hefur hið æðsta vald yfir öllum hinum sjerstaklegu málefnum Íslands með þeim takmörkunum, sem settar eru í stjórnarskrá þessari, og lætur ráðgjafa fyrir Ísland framkvæma það. Ráðgjafinn fyrir Ísland má eigi hafa annað ráðgjafaembætti á hendi, og verður að tala og rita íslenska tungu. Hann skal hafa aðsetur í Reykjavík, en fara svo opt, sem nauðsyn er á, til Kaupmannahafnar, til þess að bera upp fyrir konungi í ríkisráðinu lög og mikilvægar stjórnarráðstafanir.

*Úr athugasemdunum.*

Við 1. gr. í frumvarpi alþingis (2. gr. stjórnarskrárinnar) er þannig farið fram á að bætt sje, að ráðgjafinn skuli hafa aðsetur í Reykjavík, en fari svo opt, sem þörf gerist, til Kaupmannahafnar til þess að bera upp fyrir konungi í ríkisráðinu lög og mikilvægar stjórnarráðstafanir, Að þessar stjórnarathafnir sjeu bornar upp í ríkisráðinu, er nú sem fyr stjórnarfarsleg nauðsyn, og eins og það er *sjálfsögð meginregla,** að málin sjeu borin upp af þeim ráðgjafa sjálfum, sem stendur fyrir þeirri grein mála, sem þau heyra undir, eins mun það og, þegar um íslensk mál er að ræða, vera *haganlegast í raun og veru,* að þau sjeu borin upp af ráðgjafa Íslands sjálfum, þar sem hann er nákunnugur högum og háttum landsins og stendur í beinu sambandi við alþingi. Og návist hans þar yrði *með öllu nauðsynleg þá,* er vafi kæmi upp um það, hvort eitt eða annað af þeim málum, sem hann vildi hafa fram í ríkisráðinu, stofnaði eigi eining ríkisins í hættu eða kynni eigi að skerða jafnrjetti allra danskra ríkisborgara. Því þar sem það *auðvitað gæti ekki komið til mála,* að nokkur hinna ráðgjafanna færi að skipta sjer af neinu því, sem er sjerstaklega mál Íslands, þá er það hinsvegar eins sjálfsagt, að það væri *skylda allra hinna ráðgjafanna að mæla í móti,* ef Íslandsráðgjafinn gerði tilraun til að ráðast á annaðhvort þessara tveggja atriða, alveg á sama hátt og það væri rjettur og skylda Íslandsráðgjafans að mæla í móti, ef reynt yrði frá Dana hálfu að losa um sambandið við Ísland, eða halla jafnrjetti Íslendinga í konungsríkinu, á við aðra danska þegna.

---

*) Leturbreytingar gjörðar í endurprentuninni.

